# Um andlát tveggja kvennmanna.

## Fyrri frásagan.

Til ad sýna mønnum, sem ad vilja gá, óræk dæmi þess, hversu daudi heimslega sinnadra manneskna sé í raun og veru ólíkur þeirra, sem sanngudlegt hugarfar geyma og geymt hafa, geta eptirfylgjandi frásøgur þénad. Og þó ad øllum þeim, sem eins misjafnt eru undirbúnir, og kvennmenn þeir voru, er dæmin frásegja, bregdi ekki eins misjafnt vid daudans komu, og þeim, — er þó mismunurinn ætíd undirnidri hardla stór; en ástandid eptir daudann þeim mun miklu óttalegra edur yndislegra, sem undirbúningi hvers um sig svarar.

Sá amerikanski prestur Armstrong hefur í bréfi einu af 10da Marts 1837 skýrt frá eptirfylgjandi skelfilegu dæmi, er hann med eigin augum og eyrum kvedst séd og heyrt hafa. Ekki lángt frá grøf merkiskonu nokkurrar, sem Indverjar høfdu myrt, stód veitíngahús, sem í nokkur ár hafdi ord á sér haft fyrir prýdi sína og hagkvæmi utan og innan, svo úngu fólki þar í grend gafst besta tækifæri til, ad skemta sér þar á ýmsan hátt. Børnin í húsinu voru líka vel vanin og æfd í ad dansa, spila og skrautbúa sig; samt til alls þess, er best þénad gat, til ad gjøra þau, á heimslegan hátt, álitleg, lagleg

og skemtileg. Medal þeirra var þó einkanlega stúlka ein, sem af þeim bar. Hún var á sinu blómlegasta ungdómsskeidi, mikid frid og gladleg og gefin fyrir veraltar glaum og gledi skap. Svo bar vid, ad í þessari somu kirkjusókn voknudu sálir margra, og vard þá lika stúlka þessi um hríd hugsjúk út af hegum sálar sinnar. En þessar hræringar hvursu brátt aptur, þar hún sneri til baka til heimslegrar úngdómsgledi, og naut hennar enn nú eins árs tima, án þess ad hugleida, hve brádlega Gud kynni ad kalla hana fyrir sinn dómstól. Einn gódan vedurdag var eg staddur (skrifar presturinn) á heimili djákna nokkurs í vorri sókn, 'er átti hús í grend vid veitingastofuna; þá bar svo til, ad sú únga og frida Klóe kom þar inn, og leit hún út eins og fogur blómstrandi rós, svo tók á alla, ad sjá hana, og féllu sem í furdu yfir fegurd hennar. Þegar hún hafdi nú erindi sinu aflokid, hoppadi hún, rétt sem dansandi, aptur í burtu, íhuguunarlaus um andleg efni, og ástand sálar sinnar. Þá kom mér oldúngis ekki í hug, ad hennar fagri og heilbrygdislegi yfirlitur mundi, innan fárra daga, umbreytast í nábleika daudans ásýnd, edur ad eg þessu næst mundi sjá þessa blómlegu stúlku liggjandi á sinni banasæng. En þad skedi þó svo. Fám dogum þar eptir, mjog snemma morguns, kom sendimadur, med mesta flýtir, í hús mitt, og bad mig, ad eg, án alls undandráttar, vildi fara til veitingastofunnar, þar Klóe lægi vid andlátid, og sárbeiddi, ad eg kæmi til sín, ad bidja fyrir sér. Nú af því eg hafdi ekkert ádur heyrt um þad, ad hún væri sjúk, tók þessi fregn á mig, og eg grenslađist því nákvæmlega eptir kríngumstædunum.

Var mér þá sagt, ad hún fyrir tveim døgum hefdi ordid veik, og ad menn hefdu nóttina ádur kallad þángad saman nágrannana, sem álitid hefdu ástand hennar mjøg hættulegt. Þad var sagt hún hefdi mikla laungun á ad sjá mig, og ad náúngar hennar æsktu, ad eg á sama augnabliki vildi koma og vitja hennar. Í mesta flýti fór eg því af stad, til ad koma í þetta sorgarhús. Í sama bili sem eg kom inn í herbergi þeirrar sjúku, hrópadi hún upp á móti mér, og sagdi: Æ prestur minn! komid þér nú, og bidjid fyrir minni vesælu sálu! Eg hlýt ad deya og verd fortøpud! æ bidjid þér fyrir mér! Nú vard mér mjøg bilt vid þessa móttøku, og vid þessi hennar ord. Þar voru hérumbil 20 manns í herberginu, sem hrærdust mjøg vid ad heyra á þetta. Sjúkdómur þessa únga kvenmanns var bólga um holid, sem svo hastarlega og med slíkum ákafa hafdi í vort farid, ad eingar lækningatilraunir hrifu. Hversu hástarlega var nú umskipt í húsi þessu hjá øllum, og sérílagi hjá þessari ádur svo blómlegu ýngisstúlku. Nú heyrdist þar einginn dillandi hljódfærasaungur, eins og vant var, og vid ekkert lipurt fótatak eda dans vard þar nú vart í stofunni. Á eingum gledihlátri edur kátínutali bar þar nú hid allra minnsta medal gestanna. Allra yfirbragd var fullt af ángist og hrædslu, og þeir rétt sem stordu á rekkju hinnar sjúku. Allir í húsinu voru af þessari hastarlegu umbreytingu magnlega frá sér numdir. Nágrannarnir stódu, fullir af medaumkun, grátandi þar í kríng; og einginn furdadi sig á, þó þetta hryggdarefni tæki og á mig. Eg gekk ad sæng hinnar sjúku og sagdi: Klóe, þú ert í sannleika mikid veik! "Æ já, — svaradi hún —

æ eg hlýt að deya; en eg er ekki til dauðans undirbúin; eg verð fortöpuð! æ biðjið þér fyrir minni vesælu sálu!" Í fyrstu hafði eg hugsað mér, að gefa henni nokkra stutta uppfræðingu, til þess hún gæti líka þess betur skilið bæn mína; en hennar stóra ángist, er auglýsti sig aptur og aptur með ítrekun þeirra fyrstu orða, er hún til mín talaði, gaf mér eingan frest til að tala eitt orð henni til uppfræðingar, og eg hlaut því án dvalar að biðjast fyrir með henni. Eg varð mitt undir bæn minni að eins var við andvörp nokkur og ángistarvein hjá henni; en undir eins og eg hætti, komu aptur að nýu upp hjá henni þessi sömu skelfilegu orð, sem fyrri: "Æ eg er óviðbúin að deya; biðjið þér enn nú einu sinni fyrir mér; eg verð fortöpuð, æ eg verð fortöpuð! biðjið þér Guð enn nú meira fyrir mér!" Eg hafði allt af þá föstu ímyndan, að hún þyrfti ekki fiður uppfræðingar við enn fyrirbeiðslu, og ráðlagði henni því, að snúa huga sínum til Drottins Jesú, sem væri sá einasti, er henni gæti hjálpað; og sýndi henni þar með ofan á, hvernig hún, í þessari sinni ýtrustu neyð, ætti til hans að koma, og hans hjálpar að leita. Eptir það hún hafði þá, rétt um fáein augnablik, rennt huga sínum til fyrirheita evangelii, sneri hún sér til móður sinnar, er sat á aðra hlið við sæng hennar, og hrópaði: "Æ móðir mín! nú hlýt eg að deya! biddu nú fyrir þínu deyanda barni! Eg hefi þó aldrei á æfi minni heyrt þig biðjast fyrir. Æ móðir mín! eg verð fortöpuð; biddu nú fyrir minni vesælu sálu!" O hversu sárt tók það á mig, þegar eg heyrði því-

likt tal barnsins til sinnar móður. Allir nærstaddir flutu í tárum og harmi. Dauðinn var bersýnilega fyrir hondum. Svo lá nú þar fyrir augum vorum sú deyandi Klóe, í brennandi banastríði. Líkami hennar píndist að sönnu, af ákafasta hita bólgunnar, en sála hennar þó enn meir, af skelfíngu fyrir þeim nálæga dauða; þar hún þjáðist af því óguarlega samvitskubrixli, að hún væri óviðbúin að taka á móti þeirri mikilvægustu umbreytíngu, að gánga úr tímanum inn í eilífðina. Eg hafði að sönnu sem prestur beðist fyrir, en það verkaði hjá henni alls eingan léttir. Hún hafði að sönnu krafist af móður sinni að biðja fyrir sér; en øll sú aðstoð, sem hún gat veitt þessu sínu af ørvæntíngu plágaða barni, var falin í eintómum táraslraumi. Allir nærstaddir grétu hástøfum, en einginn gat samt hjálpað þeirri deyandi Klóe. Og mitt í því hún óaflátanlega heimtaði af øðrum að biðja fyrir sér, gjørði hún sjálf einga tilraun til að biðja fyrir sér, hvað alla nærstadda skelfdi mikillega. Mitt í þessu ástandi talaði eg til þeirrar sjúku hérumbil þessum orðum: "Æ Klóe! auðsjáanlega áttu nú eptir stutta stundu ólifaða, og þar fyrir ríður þér nú ófegjanlega mikið á, að búa þig undir dauðann. Efalaust er það að sönnu sú ákafasta laugun og bæn allra hér nærstaddra — þeirra sem annars biðja kunna — að Guð virðist að miskuna sig yfir sálu þína, tilreiða þig til dauðans, varðveita þig frá helvíti og gjøra þig hæfa til himnaríkis. En Guð heimtar líka svo nokkuð af sjálfri þér! Drottinn Jesús Kristur er dáinn á krossinum

á Golgata, til friðþægingar fyrir vorar syndir, til þess að syndararnir, fyrir trúna á hans nafn, frelsist frá eilífri fordæmingu. Guð heimtar nú af þér, að þú skulir þessum sannleika trúa, og viðurkenna fullgyldi Jesú friðþægingar. Þú ert sannfærð um syndasekt þína; þú skélfist fyrir Guðs reiði og kvíðir fyrir dauðanum. Drottinn Jesús, þinn einasti hjálpari og frelsari, hefur nú rétt sem opnað þér dyr náðarinnar, og býður þér enn nú — á þinni banasæng — að koma inn til sín, og leita hjá sér frelsis. Hann vill að þú skulir fyrir þínar syndir iðrun gjora, trúa á sitt nafn, og hrópa til sín, um hans fyrirgefandi náð. Auðmýktu þig nú þess vegna fyrir honum, gefðu honum hjarta þitt, og legðu þig í hans hendur; því þá bæði getur hann og vill fyrirgefa þér syndir þínar, og frelsa sálu þína frá eilífum dauða." Meðan eg nú talaði þessum orðum, hlustaði hún á þau með einskonar yfirbragði, sem fullt var af forundrun; en mitt í þessu skeði veruleg umbreyting á hennar útliti. Hún teigði sig alla út í sænginni, sneri augunum upp í húsþekjuna, titraði öll og skálf. Mitt í þessu var hún nú bersýnilega allt af með fullu ráði. Þegar eg merkti nú, að dauði hennar gæti ekki fjærri verið, setti eg þessa spurníngu fyrir þessa deyandi manneskju: "Klóe, sagði eg, viltu nú meðtaka Drottinn Jesúm fyrir þinn einasta Frelsara frá synd og helvíti? og viltu nú ofurgefa sálu þína í hans hendur?" Með skjálfandi roddu svaraði hún: "Nei! eg get það ekki!" Frá mér numinn af skelfíngu yfir svari þessu, spurði eg hana enn nú eitt sinn: "hvar

fyrir, Klóe! hvar fyrir viltu ekki, hvar fyrir getur þú ekki nú meðtekið Krist sem þinn Frelsara, þar þú liggur þó í andarslitrunum?" Með fullu ráði leit hún þá stift í andlit mitt, og svaraði, með enn nú veikari og titrandi röddu: "það er offseint!". Þessi voru hennar síðustu orð. Ekkert orð varð framar við hana talað, og hún lét ekki heldur eitt einasta atkvæði framar til sín heyra. Hún drógst síðan saman kveinandi, skalf, hætti að draga andann; og eptir ekki fullar tvær stundir, frá því eg kom í þetta-herbergi, var hennar óbauðlegi andi allareiðu kominn inn í aðra veröldu. Eg lukti síðan augum hennar, mitt undir ópi hennar huggunarlausu náúnga, og grátkvaki allra hinna annara nærverandi, sem komist höfðu alvarlega við út af öllu þessu. Sjáum! svona deyði nú sú áður svo friska og fagra Klóe í fullri örvæntingu! Foreldrar hinnar örendu báðu mig að vera við hennar jarðarför og halda líkræðu. Eg hét því með því móti, að þau vildu leyfa mér, að skýra líkfararsöfnuðinum frá kríngumstæðum dauða dóttur þeirra, til þess að geta notað þetta tilfelli, til háíðlegrar aðvörunar úngu fólki, og öllum iðrunarlausum syndurum. Þessi bón mín var fortakslaust eptir mér látin. Við greftrunina kom saman ýfrið mikill manngrúi. Við endalykt líkræðunnar skýrði eg — til staðfestingar þess í henni undangeingna — frá kríngumstæðum þessa skelfilega dauðdaga, og mitt í því voru leifar þeirrar sárthörmuðu úngu stúlku lagðar í moldina.

Ó þér lesendur og heyrendur frásögu þessarar, gætid þess, ad þessi advörunar-raust er enn nú ekki þögnud, heldur hrópar hún snjallt og sífelt til ydar, segjandi, fyrst til ydar, foreldrar: kappkostid af allri alúd ad uppala ydar börn í aga og umvöndun til Drottins, og innrætid hjá þeim sannan Gudsótta, med uppfrædingu, áminningum og eptirdæmi, svo þeirra blód ekki komi yfir ydur, því vor Gud er strángur vandlætari!

Þar næst þér syndarar, allir yfir höfud: gætid ad vegum ydar í Guds nafni, og snúid ydur til Drottins, ádur enn þad verdur offeint! Reidid ydur ekki upp á banasængina, til þess ad geta þá búid ydur undir daudann! já, reidid ydur ekki upp á morgundaginn, heldur leitid strax í dag Drottins nádar! Nú er sá þægilegi tími, nú er dagur hjálpræDisins! Á morgun kann þad ad vera ordid offeint fyrir ydur, til þess ad geta þá fengid fyrirgefningu og sáluhjálp! Æ hugsid nú af alvöru eptir þessu!

---

## Sídari frásagan.

Svo látandi var nú hin fyrri frásagan; nú fylgir á eptir hin önnur, sem henni er gagnstæd, og segir frá andláti kvennmanns þess, er Sara hét, engelskrar ad ætterni. Vorid 1817 urdu náúngar hennar þúnglega særdir med dauda hennar, þar hún var hin elsta af 10 systrum. Þeir mistu í henni

bestu medhjálp á lífsferdinni, þar hennar gladværa sinnislag hresti þá svo opt upp, svo þeir gleymdu böli sínu, mitt í þeim miklu þjáníngum, sem þeir lidu. En þad hlutfall hitti hana, ad hún hlaut leingi undir slíkumkrossi ad mædast, sem valla gat þýngri ordid, enn hann var. Hennar sála og hold hlaut leingi, ad draga þetta hörmúngaok, en hún bar þó sigurinn úr býtum, því hún gat med þolinmædi vonad á sinn Frelsara, og kastad í burtu öllu trausti á sitt eigid réttlæti, en reitt sig í audmýkt á þá Guds nád, sem Kristur hefur afrekad oss. Banasæng hennar var spegill hörmúngar og þó þolinmædis. Raust andaktar samanblandadist veini hörmúnganna. Holdid þjádist af kvölunum, en andinn var þó fullur af fridi. Systir hennar, sem Hanna hét, hughreysti sína deyandi systur med sínu vidtali, sem fullt var af huggunum heil. ritníngar; mitt í því ad hennar hönd gjördi allt hvad hún megnadi, til ad létta henni þá sídustu orustu. Þann kristilega sálarstyrk, sem Sara sýndi í dauda sínum, hefur vinur vor, sem á tíma hennar sídasta sjúkdóms stödugléga var í þeirra húsum, med fylgjandi ordum útmálad: Þær sídustu stundir, sem Sara lifdi, gáfu oss merkilega fullvissu um hennar trú á Gud, og um nád og krapt þess heilaga anda, svo eg hélt þad fyrir mína sönnu skyldu, ad uppskrifa þad einstakasta, sem eg munad gat, þar ad lútandi, eigi sídur sjálfum mér til uppbyggingar, enn til huggunar elskendum hennar, sem í því tilliti mega staklega gledja sig yfir mætti og gædsku Drottins vors. Af mjög óljósum merkjum fékk Sara — 6 mánudum ádur hún

skildi við — ráðið hvert útfall verða mundi á sjúkdómi sínum, og að sinn merkilegi viðskilnaður væri fyrir höndum, hvað hún sagði fyrir fram trúrri vinnukonu sinni, og það með fagnaðarfullri hughreysti og ofurgefningu undir Guðs vilja, sem hún sýndi allt til þess síðasta augnabliks, og undir eins bætti hún þeim orðum við: að það liði svo eingin stund dags, að ekki uppstigi í hjarta sér, ásamt brennandi bæn til Guðs, þessi orð, úr hinni gömlu litaníu: "á stundu dauðans og degi dómsins frelsa þú oss, Drottinn vor Guð!" Nokkuð laungum tíma eptir það að sárin duttu á fætur hennar, og þau feingið höfðu hættulegt útlit, leyfði hún sér þó ekki svo mikið sem að stynja við út af því; og þegar þó loksins að dauðans ángist þreságði hana til þess, þá sýndist sem hún ætíð ávítaði sjálfa sig fyrir það, eins og hún þar með skyldi hafa fallið frá ofurgefningu sinni undir Guðs vilja, um hverja hún daglega bað Guð af öllu hjarta. Einu sinni þegar hún, þjáð af ákøfustu verkjum, sat í svefnhúsi sínu, sagði ein af systrum hennar við hana: æ vesælings Sara, mikið tekurðu nú út! Já að vísu, svaraði hún, en það er allt saman gott! Nokkru þar á eptir hresti hún svo upp nálæga vini sína og aðra aðkomna, sem ángráðir voru út af þjáníngum hennar, að þeir, søkum þeirrar hughreysti, sem var í tali hennar, og gleði, sem sást á hennar yfirbragði, urðu stundum svo blindaðir, að þeir héldu, að þær sorglegu fregnir, er þeir heyrt höfðu um ástand hennar, væru mikið orðum auknar af meðaumkun elskenda hennar, sem

hræddir væru um hennar líf. Þegar hún enn nú var ekki veikari orðin enn svo, að hún gat þó setið við vinnu sína, lét hún eitt sinn í ljósi órækustu rök til þess, hversu hjarta hennar var með öllu fráskilið jarðneskum hlutum í þessum heimi. Hún nefnilega afbað það, að láta setja stól sinn út við gluggann, hvaðan hún gæti sér til ánægju séð út yfir jurtir þær og blómstur, hverra ræktan og hirðíng hafði þó áður verið hennar staðfasta yndi og skemtun; en frá þeim snéri hún nú öldúngis augum sínum, og gaf þar með til kynna, að hún hefði nú allt annað til að skemta sér við. Loksins varð henni hreint ómögulegt að sitja framar uppi; og skömmu áður, þegar hún í síðasta sinni leidd var upp stiga nokkurn úr húsi því, er hún hafði áður í verið, leit hún allt í kríng um sig, og líka sem innilega kvaddi pláts það, við hvert hún svo leíngi var vön orðin. Að vísu talaði hún ekki eitt orð, en augnaráð hennar sýndi þó hennar hátíðlega sinnislag. Að þjáníngar hennar voru svo lángvinnar og þúngar, olli því, að hún loksins gat sjálf ekki lesið nokkuð framar, hvað þó ætíð verið hafði hennar yndi og eptirlæti. En til þess að bæta henni að nokkru leyti brest þennan, var ein af systrum hennar vön að lesa fyrir henni stuttar greinir úr Guðs orði, móti hverjum hún ávalt tók, og talaði um efni þeirra, með stærsta hjartans fögnuði. Einkum á tveimur síðustu árum lífstunda hennar, meðan hún gat, las hún iðuglega heil. ritníngu, og aðrar andlegar bækur, svo alt hennar líf og yndi var þar í fólgið; og það var mjög merkilegt, hversu að,

mitt í þeim augnablikum, sem hún tók mestu þján-ingu út, gaumgæfni hennar vaktist, og hjarta hennar hrestist, undir eins og einhver af nærstöddum hafdi yfir einhverja grein úr heil. ritningu, edur stutta bæn; já þetta hrærdi hana ætíd mjög innilega, enda þó hún sjálf gæti ekki talad. Einn dag, eptir þad hún lángan tíma hafdi legid rétt rænulaus ad sjá, reyndi einn vinur hennar til ad endurnæra hana med nokkrum ordum úr ritningunni, og þá rètt í sama bragdi hróp-adi hún upp og sagdi: "getur nokkud dýrdlegra verid enn þetta? þad gjørir andlitid rétt sem skínandi!" Þegar hún komin var rétt ad fram, bad hún eitt sinn ad láta lítid stúlkubarn, sem hún elskadi mjøg, til sín koma. Þegar þad var nú til hennar komid, gat hún ekki nema einstøku ordum framstunid; en meining þeirra var þó þessi: "Gud blessi þig, mitt kæra barn! elskadu Gud! hlýddu Gúdi! ræktu bænina til Guds, framar øllu ødru!" Eitt kvøld kvartadi hún yfir þeim morgu ljósum, sem í húsinu voru, og bætti því vid: "ad vid þá minnstu ljósbirtu gæti madur þó dáid!" Hanna systir hennar spurdi hana einu sinni hvort henni lidi vel í anda? þá svaradi hún: "mér lidur yfir høfud mikid vel!" Eptir þad spurdi annar madur hana: hvort hún þekkti nokkurn af þeim ná-lægu vinum? O já, svaradi hún, eg þekki sérhvern, og skil allt hvad talad er!" Þegar einn af þeim nærstøddu sagdi: æ þessi góda vesæla sála, hún finnur og til sinna þjáninga! þá svaradi hún, med þeirri raustu, er sýndi, ad hún af hjarta ofurgaf sig Gudi: "eg hugsa þar ekkert um!" Þegar menn héldu nú ad henn-

ar síðasta stund mundi vera fyrir höndum og læknirinn bauð henni góðan dag, lypti hún, full af heilagri andagipt, handlegg sínum upp, og hrópaði: "ó þann dýrdlega morgun upprísunnar! en fyrir honum liggja enn nú nokkur dymm ský!" Síðan blessaði hún læknirinn og allt heimilisfólkið, og áminnti það um, að elska Guð, og hugsa um sálir sínar. Síðan hrópaði hún upp og sagði: "ef þetta skal vera sú blessaða stund minnar burtlausnar, þá óska eg mér að deya dauða hinna réttlátu, og að mínir síðustu þánkar, séu þánkar friðarins!" Litlu síðar vaknaði hún úr sætu svefnmóki hastarlega, og hrópaði frá sér numin: "lof og dýrð og vegsemd og vald sé lambinu Guðs! Halelujah!" Annan morgun, þegar allir héldu hún væri rétt skilin við, hrestist hún þó lítið upp aptur, og tæpti fram þessum orðum: "æ hvenær mun eg þángað komast, til að fá fulla náð, frið og fyrirgefningu!" Síðan bað hún um lítið eitt af köldu vatni; sneri höfði sínu að þeirri, sem rétti það að henni, og sagði: "veitstu hvað það er, að gefa einum kaldan bikar vatns í Kristi nafni?" Mitt á milli þess sem hún lá í aungvitum, og mitt í þeim sterkustu verkjakviðum, hrópaði hún óaflátanlega, og sagði: "ó það dýrmæta Jesú blóð! — hann dó fyrir mig! — hans blóð gjörir mig hreina — Guð varð maður — Drottinn lát þitt auglit skína yfir mig — hvenær mun eg koma fyrir Guðs auglit!" Síðan talaði hún, hálfsvegis frá sér numin, þó í hátíðlegum tón, til systur sinnar Elísabetar, og sagði: "elskaðu þann náðuga Guð! ó Drottinn varðveit þú mig undir vængjum elsku

þinnar!" Eptir litla þøgn, sagdi hún til systur sinnar Hønnu: "eg vona eg hafi nú øll stríd afstadid; ó Drottinn! eg er reidubúin! endadu nú mitt dagsverk!" Þegar hún nú á álidnum degi vaknadi aptur, andvarpadi hún enn þessum ordum: "Drottinn líttu nú nidur til mín, med ljósi þinnar nádar! láttu þinn heil. anda yfir mér lýsa! lít þú Drottinn á þína vesælu ambátt!" Þegar nú einhver af þeim nærstøddu gegndi henni, og sagdi: Drottinn mun frelsa þig frá þjáníngum þínum, og þær frá þér taka, þá sýndist eins og hún væri hrædd um, ad hún hefdi eitthvert óþolinmædis ord talad, og svaradi því ad vørmu bragdi: "já, á sínum tíma mun hann gjøra þad!" Þá hóf hún þakklætisbæn, og bætti þessum ordum vid: "æ Drottinn! líttu nú nidur á þína vesælu, idrandi, audmjúku og sundurknosudu syndugu skepnu!" Eptir þad hún hafdi nú sídan, nærri í þrjá daga, legid í sterkum høfudórum, edur svo, ad hún vissi ekkert af sér, vard hún aptur rólegri, og lét, eins og ætíd endrarnær, ekkert þad ord af sér heyra, í hverju ekki samanblandad væri þakklæti og bæn. Hennar helsta bæn, á þessum tímum, var um Guds nád og helgun; og hún upphvatti systur sínar alvarlega til ad bidja, bædi sín og þeirra vegna, um gjøf heilags anda. Já, mitt í hennar mikla høfudóra-tali — hvort sem þad var skiljanlegt, edur ósamanhángandi, í stillíngu edur ákefd, var ætíd nafn Guds og hennar Frelsara á hennar túngu. Systir hennar spurdi hana þá ad: hvort hún þekkti sig? "Eg þekki eingan, nema Jesúm Krist, svaradi hún. Um kvøldid næsta ádur enn hún

sáladist, þegar hún var ordin nærri mállaus, skildist þó ad hún andvarpadi til þeirra nærstöddu þessum ordum: "æ talid vid mig um krossinn! um þann dýrmæta kross og konúng kærleikans!" Ad morgni hennar blessada andlátsdags, þegar hún gat ekki framar móti neinu tekid, og þekkti alls eingan, gat hún þó enn nú sýnt viss merki til þess, hversu ad hugur hennar fastur var vid þad himneska; því þegar einn vinur hennar taladi til hennar þeim hjartahrærandi ordum: "blódid Jesú Krists hreinsar oss af öllum vorum syndum!" — þá, mitt í því hún med augum og hendi sýndi sína hjartans audmýkt, sagdi hún: "já vissulega hreinsar þad oss!" Og ad einu augnabliki lidnu þar á eptir, sagdi hún: "æ elskulegi herra Jesús!" og þessi voru þau sídstu ord, er eg man til, ad eg heyrdi til hennar. Af því, sem er ádur sagt, sýnist valla þörf á ad geta þess, ad allt hennar strid vid hinn sídasta óvin, svo leingi hún var med rádi, var stödugt og órækt vitni þess, ad þeir ávextir andans, sem Páll postuli upptelur (Gal. 5, 22) nefnilega: "kærleiki, fögnudur, fridur, þolinmædi, ljúflyndi, gódsemi, trú, hógværd og bindindi" hefdu búid og byggju í hennar sálu; og fyrir oss, sem til hennar heyrdum, var einkis framar ad æskja, enn þess: ad vort hid sídasta yrdi sem hennar!

Svona hljóda þá, kærir vinir! þessar tvær andlátssögur! Bádar sýna ljóst, hvílikt hjartalag beggja þeirra deyandi manneskna, sem þær umgeta, verid hafi, og hversu því ádur var háttad. En hvad var nú þad, sem gjördi banasæng annarar ad pínubekk,

og steypti sálu hennar í örvæntingu? hvad, nema þad, ad hana vantadi lifandi trú á Jesúm! Og hvad var þad, sem gjørdi hina svo hugrausta og glada, og þad mitt í stærstu líkamans þjáningum? hvad, nema sønn og elskufull trú á Jesúm Krist! O vanrækid þá ekki, brædur og systur! sem þetta lesid edur heyrid, ad leita Jesú réttilega — med sannri idrun, lifandi trú, og óaflátanlegri brennandi bæn — já, ad leita hans strax í dag, svo framt ydar hjarta hefur ádur af hans íbúd snautt verid, ef þér viljid ødlast geta, ekki ad eins sálnhjálplegan, heldur og hughraustan dauda! Æ í Guds nafni, látid þad ekki bregdast!

---

Kaupmannahøfn 1854. Prentad hjá S. L. Møller.